Sk /

# SKÝRSLA

UM

PRESTASKÓLANN Í REYKJAVÍK.

# EFTERRETNINGER

OM

PASTORALSEMINARIET I REYKJAVIK.

---

REYKJAVÍK 1856.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS HJÁ
E. ÞÓRÐARSYNI.

# SKÝRSLA

UM

PRESTASKÓLANN Í REYKJAVÍK,

EPTIR FORSTÖÐUMANN PRESTASKÓLANS,

PRÓF., DR. OG LECTOR THEOL. P. PJETURSSON,

R. AF DBR.

# EFTERRETNINGER

OM

PASTORALSEMINARIET I REYKJAVIK

VED INSTITUTETS FORSTANDER,

PROF., DR OG. LECTOR THEOL. P. PJETURSSON,

R. AF DBR.

---

REYKJAVÍK 1856.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS, HJÁ

E. ÞÓRÐARSYNI.

Í reglugjörðinni fyrir prestaskólann í Reykjavík 11. gr. er boðið, árlega að prenta stutta skýrslu um afdrif burtfararprófsins og alla tilhögun á kennslunni. En þar eð tilhögun á kennslunni hefur á seinni árum yfir höfuð að tala lítið verið breytt, og hún geingur hèr um bil eptir sömu reglum, hefur umsjónarmönnum prestaskólans ekki þótt þörf á, að gefinn væri út um þetta skýrsla á hverju ári sèr í lagi, hvers vegna forstöðumaðurinn hefur látið sèr lynda, að birta við og við á prenti í dagblöðum þeim, sem hèr hafa komið út, bæði nöfn þeirra, sem hafa útskrifazt, hvernig þeim hefur geingið í burtfararprófinu, og hver ritgjörðaefni fyrir þá hafa verið lögð. Nú hefur það þó þótt eiga við, að draga þetta saman í eina skýrslu og bæta því við, sem nauðsynlegt virðist til frekari útskýríngar um ástand þessarar menntunarstofnunar.

## *1. Stofnun og reglugjörð prestaskólans.*

Með konúngs-úrskurði frá 7. júní 1841 var ákveðið, að stofna prestaskóla, eða menntunarstofnun fyrir prestaefni á Íslandi. En þar eð þetta mál var

I Regulativet for Pastoralseminariet i Reykjavik § 11 er det bestemt, at der aarlig skal trykkes en kort Beretning, saavel om Udfaldet af Examen, som Underviisningens Gang i det Hele. Men da Underviisningen i de senere Aar ikke har undergaaet nogen væsentlig Forandring, men er gaaet frem omtrent efter de samme Regler, har Ephoratet ikke anseet det for nödvendigt, aarlig at udgive en saadan Beretning, hvorfor Forstanderen har indskrænket sig til, at indrykke i de hersteds udkommende Dagblade, saavel deres Navne, som have underkastet sig Afgangsexamen, som ogsaa en Fortegnelse over de faldne Characterer og de til den skriftlige Pröve opgivne Qvæstioner. Imidlertid har man dog nu anseet det for passende, at samle dette i en særlig Beretning, samt tilföje, hvad der maatte ansees nödvendigt til yderligere Oplysning om Læreanstaltens Tilstand.

## *1. Pastoralseminariets Stiftelse og dets Regulativ.*

Ved allerhöjest Resolution af 7. Juni 1841 blev det bestemt, at der skulde oprettes et Pastoralseminarium, eller Dannelsesanstalt for vordende

sett í samband við endurbót hins lærða skóla hèr, var ekki hreift máls á því, hvernig skipulagi prestaskólans skyldi vera háttað, fyr en búið var með konúngs-úrskurði 24. apríl 1846 að ákveða, eptir hvaða grundvallarreglum ætti að laga hinn lærða skóla. Stiptsyfirvöldin, sem voru beðin að segja álit sitt um, hvernig prestaskólanum yrði haganlegast fyrir komið, sendu með brèfi, dags. 4. marzmán. 1847, til Kaupmannahafnar álitsskjal, er biskupinn hafði tekið saman, um þetta efni með ýtarlega útlistuðum ástæðum, ásamt athugasemdum frá nokkrum embættismönnum andlegu stèttarinnar. Eptir að kennararnir í guðfræði við háskólann höfðu sagt meiníngu sína um álitsskjal biskupsins, var með konúngs-úrskurði frá 21. maí 1847 ákveðið, að prestaskólinn skyldi taka til starfa 1. dag októbermán. s. á., og lagast eptir þeim grundvallarreglum, sem teknar voru fram í áminnztum úrskurði, og var háskólastjórn þeirri, sem þá var, falið á hendur, þegar farið væri að kenna í þessari menntunarstofnun og háskólastjórnin hefði feingið í hendur nauðsynleg álitsskjöl og uppástúngur frá forstöðumanninum og umsjónarmönnunum, að bera undir konúng ýtarlegt frumvarp til reglugjörðar fyrir prestaskólann, byggt á þeim grundvallarreglum, sem áður er getið. Þegar umsjónarmönnunum var sendur þessi úrskurður, var þeim ekki gefin nein ávísun um, hvernig ætti að

geistlige Embedsmænd paa Island. Men da den Sag sattes i Forbindelse med en paatænkt Reorganisation af den herværende lærde Skole, kom Spörgsmaalet om Pastoralseminariets Indretning först under Behandling, efterat der ved allerhöjest Resolution af 24. April 1846 vare fastsatte de Grundbestemmelser, hvorefter den fremtidige Organisation af den lærde Skole skulde indrettes. Stiftsövrigheden, som da blev anmodet om, at afgive sin Betænkning om Organisationen af det paatænkte Pastoralseminarium, indsendte den 4. Marts 1847 en om denne Plan af Biskoppen affattet, udförligen motiveret Betænkning, ledsaget af nogle geistlige Embedsmænds Yttringer. Efterat det theologiske Facultet om Biskoppens Plan havde afgivet sin Mening, blev det ved allerhöjest Resolution af 21. Mai 1847 bestemt, at Pastoralseminariet skulde træde i Kraft den 1. Oktober næstefter, og organiseres efter de i bemeldte Resolution indförte Grundbestemmelser, hvorhos den daværende Direction for Universitetet og de lærde Skoler blev bemyndiget til, efterat Dannelsesanstalten havde begyndt sin Virksomhed, i Overeensstemmelse med de nævnte Grundbestemmelser, og naar de fornödne Betænkninger og Forslag fra Forstanderen og Ephoratet vare modtagne, allerunderdanigst at forelægge Hans Majestæt til allerhöjest Approbation en yderligere udviklet Plan til et Reglement for bemeldte Anstalt. Da Ephoratet blev meddeelt denne kongelige Resolution, blev der ikke given nogen

framfylgja þessum grundvallarreglum, heldur voru þeir og forstöðumaðurinn látnir sjálfráðir að því. En eptir beiðni forstöðumannsins sendi þó háskólastjórnin honum seinna athugasemdir þær, sem kennararnir í guðfræði við háskólann höfðu gjört. Þegar prestaskólinn hafði staðið árlángt (ɔ: frá 1. okt. 1847 til júnímánaðar-loka 1848), sendi forstöðumaður hans umsjónarmönnunum frumvarp til reglugjörðar fyrir prestaskólann, er hann hafði tekið saman og byggt á þeim grundvallarreglum, sem gefnar voru í fyr nefndu konúngsbrèfi, með hliðsjón bæði af uppástúngum biskupsins og guðfræðínga háskólans, og jafnframt af því, sem reynslan þegar var búin að kenna honum. Þetta frumvarp sendu umsjónarmennirnir ásamt athugasemdum sínum stjórnarherra kennslumálanna, og lagði hann það til grundvallar fyrir þeirri reglugjörð fyrir prestaskólann, sem hann 30. júlí 1850 bar undir konúng og fèkk af honum staðfesta, en þó að eins til bráðabyrgða, vegna þess að prestaskólinn var þá búinn að standa svo stutta stund.

Reglugjörðin hljóðar þannig:

1. gr.

Sá er tilgángur prestaskólans í Reykjavík, að fræða svo þá, sem í hann gánga, að þeir verði menntaðir kennimenn, uppbyggilegir sálusorgarar og nytsamir embættismenn.

2. gr.

Tilsögnina skal veita í fyrirlestrum, og skulu kennslugreinirnar vera þessar: 1, Útskýríng ritn-

Oplysning om Udförelsen af disse Grundbestemmelser, der saaledes var overladt til Forstanderen og Ephoratet. Senere blev efter Forstanderens Anmodning af Directionen tilstillet ham det theologiske Facultets Bemærkninger. Efterat Pastoralseminariet havde i eet Aar været i Virksomhed (ɔ: fra 1. October 1847 til Juni Maaneds Udgang 1848), indsendte Forstanderen til Ephoratet et af ham udarbeidet Udkast til et Regulativ for dette Institut, bygget paa de i ovenmeldte allerhöjeste Resolution indeholdte Grundbestemmelser, samt affattet saavel med Hensyn til de af Biskoppen og de theologiske Professorer afgivne Betænkninger, som ogsaa til den vundne Erfaring. Dette Udkast fremsendte derpaa Ephoratet, ledsaget af dets Bemærkninger, til Cultusministeren, der lagde samme til Grund for det Regulativ for Pastoralseminariet, som han den 30. Juli 1850 forelagde Hans Majestæt til Approbation, dog, med Hensyn til den korte Erfaring, kun som forelöbigt.

Regulativet lyder saaledes:

§ 1.

Pastoralseminariet i Reykjavik har det Formaal, at uddanne sine Alumner til oplyste Geistlige, opbyggelige Sjælesörgere og duelige Embedsmænd.

§ 2.

Gjenstandene for Underviisningen, der meddeles i Form af Forelæsninger, ere fölgende: 1, Exegese,

íngarinnar, ásamt inngángi til gamla og nýja testamentisins. 2, Trúarfræði, biblíuleg og kirkjuleg. 3. Kristileg siðafræði. 4, Kirkjusaga, ásamt biblíusögu og sögu trúarlærdómanna. 5, Kennimannleg guðfræði: *a*, Prèdikunarlist; skulu þar gefnar stuttar reglur, en þó greinilegar, um prestlega málsnilld, að því leyti sem auðið er eptir almennum lögum hugsunarinnar; jafnframt skulu við hafðar stöðugar æfíngar, bæði í því að taka saman ræður og bera þær fram. *b*, Barnaspurníngarfræði; hún skal að eins vera innifalin í því, að venja prestaefnin við að spyrja börn með tilsögn kennarans. *c*, Kennimannleg guðfræði í þreingri merkíngu; hún skal vera leiðarvísir í því, að verja guðsorði í ýmsum sèrlegum ytri og innri kríngumstæðum og atvikum lífsins, t. a. m. í þjónustu sakramentanna, vitjun sjúklínga, húsvitjun; sömuleiðis skulu þar gefnar reglur um guðsþjónustugjörð. Sálarfræðislegar hugleiðíngar skal teingja við kennimannlegu guðfræðina.

Þegar því verður við komið, skal kenna í fyrirlestrum almennan kirkjurètt, en einkum íslenzkan kirkjurètt, og fræða prestaefnin um hinar helztu kirkjulegu tilskipanir, um skýrslur, sem prestar eiga að gefa, um stjórn á fátækra-málefnum og um forstöðu prestakalla, ásamt kirkju og kirkjujörðum.

3. gr.

Þeir, sem vilja fá kennslu í prestaskólanum, verða áður að hafa geingið undir burtfararpróf í latínuskólanum; en þeir, sem inntöku beiðast í presta-

med Indledninger saavel til det Gamle som det Nye Testament. 2, Bibelsk-kirkelig-symbolsk Dagmatik. 3, Christelig Moral. 4, Kirkehistorie, tilligemed Bibel- og Dogmehistorie. 5, Practisk Theologie: *a,* Homiletik, der angiver korte og tydelige Regler for den geistlige Talekonst, og förer dem, saavidt muligt, tilbage til Tænkningens almindelige Love (Logik), i Forbindelse med jævnlige Övelser, saavel i at udarbeide en Prædiken, som at holde den. *b,* Catechetik, der bliver at indskrænke til practiske Övelser under Lærerens Veiledning. *c,* Pastoraltheologie: Anviisning til det guddommelige Ords Anvendelse paa særegne indre og ydre Stillinger og Forhold i Livet, saasom: Sacramenternes Administration, Sygebesög, Huusbesögelser og en liturgisk Anviisning. Til Pastoraltheologien knyttes psychologiske Betragtninger.

Naar Leilighed dertil haves, holdes et Forelæsningscursus over saavel den almindelige, som navnlig den islandske Kirkeret, og Seminaristerne bibringes Kundskab om de vigtigste gjeldende geistlige Anordninger, om geistlige Indberetninger, Fattigvæsenets Bestyrelse, samt Bestyrelsen af et Beneficium med Kirke og Mensal-gods.

§ 3.

Adgang til Benyttelse af Pastoralseminariets Underviisning betinges af en absolveret Afgangsexamen ved den islandske lærde Skole, og vil det for dem, der melde sig til Optagelse sildigere end et

skólann, þegar meir en ár er liðið frá því, er þeir af luku burtfararprófi í skólanum, skulu skyldir áður að gánga undir inntökupróf í prestaskólanum. Með þessu skilyrði fá þeir, sem útskrifaðir eru úr skólanum, eða hafa geingið undir fyrsta próf á háskólanum, inntöku í prestaskólann, þángað til fullkomið burtfararpróf kemst á í skólanum.

4. gr.

Inntökupróf skulu kennarar prestaskólans halda með tilsjón biskupsins. Prófsgreinirnar skulu vera þessar: að snúa latínu og grísku á íslenzku, latínskur stýll, mannkynssaga, og ebreska fyrir þá, sem hug hafa á að fá í henni ýtarlegri tilsögn, sem kostur verður gefinn á í prestaskólanum. Skal yfirheyrslan einkum miða til þess, að komast að því, hve mikilli almennri menntun í vísindum og andlegum þroska hver einn hefur náð, meðan hann dvaldi í skóla. Reynist sá, sem undir prófið geingur, hæfur til inntöku í prestaskólann, fær hann, að afloknu prófi, einhverja af þessum 3 einkunnum: *admissus cum laude, admissus,* eða *vix admissus.*

5. gr.

Kennslunni skal svo hagað, að henni verði lokið á tveim árum; en eins og hver sá, sem þess beiðist, skal eiga kost á að halda leingur áfram lærdómsiðkunum, þannig skulu og stjórnendur presta-

Aar efterat de have taget Afgangsexamen i Skolen, være nödvendigt, forud at underkaste sig et Tentamen ved Pastoralseminariet. Indtil fuldstændig Afgangsexamen bliver afholdt ved Skolen, have de, der ere dimitterede derfra eller have taget Examen Artium, Adgang til Optagelse i Pastoralseminariet, under de her foreskrevne Betingelser.

§ 4.

Ved et saadant Tentamen, der bliver at foretage af Pastoralseminariets Lærere, under Tilsyn af Biskoppen, som geistlig Ephor, skulle Examensgjenstandene være: Oversættelse fra Latin og Græsk, en latinsk Stiil, Historie, samt Hebraisk for dem, der önske at deeltage i den videre Underviisning i dette Sprog, som tilbydes ved Pastoralseminariet. Bör Examinationen især gaae ud paa at pröve, hvilken almindelig literair Dannelse og aandelig Modenhed Candidaten under det tilbagelagte Skolecursus har opnaaet. Naar Candidaten ellers befindes at være moden til Optagelse i Pastoralseminariet, meddeles for Udfaldet af Tentamen Characteren: Admissus cum laude, Admissus, eller Vix admissus.

§ 5.

Underviisningen indrettes saaledes, at den kan absolveres i to Aar; men ligesom det skal være dem, som önske saadant, uformeent, at fortsætte deres Forberedelse i længere Tid, saaledes vil og af Pastoralseminariets Bestyrelse kunne meddeles Tilladelse

skólans geta veitt leyfi til, að gánga undir próf eptir skemmri tíma en tvö ár.

6. gr.

Þeir, sem vilja fá þvílíkt leyfi, skulu brèflega beiðast þess af umsjónarmönnum prestaskólans, um leið og þeir sækja um inntöku í prestaskólann, og gánga síðan undir frumpróf í biblíuþýðíngu, kirkjusögu, trúar- og siða-fræði; skal prófi þessu hagað á sama hátt, sem fyrir er skipað um inntökuprófið í 4. gr.; forstöðumaður prestaskólans sendir síðan skýrslu um afdrif prófsins umsjónarmönnum prestaskólans, og veita þeir þá leyfi það, sem um var beðið, en þó einúngis þegar svo stendur á, að prófdómendur í einu hljóði hafa álitið þann, sem undir próf gekk, til þess hæfan.

7. gr.

Prestaskóla-árið byrjar 1. dag októbermán., og endar 30. dag júnímán.; er þá sumarleyfi um 3 mánuði, júlí, ágúst og september. Ári þessu skal skipta í tvo hluti, og nær hinn fyrri fram í miðjan febrúarmánuð, en hinn síðari til júnímánaðarloka. Í byrjun hvers skólamissiris semur forstöðumaðurinn lestrartöflur, sem umsjónarmennirnir eiga að samþykkja; lestrartöflur þessar skulu sýna, hvernig kennslunni miðar áfram, bæði yfir höfuð að tala og í hverri einstakri vísindagrein, sem nefnd er í 2. gr. Ekki skal verða hlè á kennslunni, nema á sunnu- og helgi-dögum, og þar að auki

til at indstille sig til Examen efter en kortere Forberedelsestid end to Aar.

§ 6.

De, som maatte attraae en saadan Tilladelse, bör samtidig med deres Ansögning om Optagelse i Pastoralseminariet derom indgive et skriftligt Andragende til Ephoratet, og derpaa underkaste sig en forelöbig Examen i Exegetik, Kirkehistorie, Dogmatik og Moral, der afholdes paa samme Maade, som foreskrevet er med Tentamen i § 4, hvorefter Tilladelsen meddeles af Ephoratet, dog ikkun i det Tilfælde, at Vedkommende, ifölge den Indberetning, som Forstanderen for Pastoralseminariet har at afgive om Udfaldet af en saadan Examen, af Censorerne eenstemmigen dertil er anseet moden.

§ 7.

Ved Pastoralseminariet begynder Studieaaret den 1. October og sluttes den 30. Juni saaledes, at der holdes Sommerferie i de tre Maaneder: Juli, August og September. Det deles i to Semestre, hvoraf det förste gaaer til Midten af Februar, det sidste til Slutningen af Juni-Maaned. I Begyndelsen af hvert Semester indsender Forstanderen for Pastoralseminariet Lectionstabeller til Ephoratets Approbation, der vise, hvorledes Underviisningen i det Hele, som i de enkelte under § 2 anförte Discipliner skrider frem. I Studieaarets Löb afbrydes Underviisningen ikkun ved Sön- og Helligdagene, samt ved Juul, Paaske og Sommerferien, og bör den

í jóla-, páska- og sumar-leyfi, og skal kennslutíðin í hverri viku vera að minnsta kosti 36 stundir.

8. gr.

Burtfararpróf skal ár hvert halda í miðjum ágústmán. Í próftöflu þeirri, sem forstöðumaður prestaskólans sendir áður umsjónarmönnunum, skulu vera tilgreindar greinir þær, sem prófið verður haldið í; þar skal og skýrt frá, í hverri röð prófið skuli fara fram. Prestaefnin skal reyna í öllum þeim kennslugreinum, sem taldar eru í 2. gr., og skal haga prófinu þannig:

1. Í biblíuþýðíngu er prófið bæði munnlegt og skriflegt í því, sem yfir farið hefur verið í 2 ár úr nýja og gamla testamentinu. Auk inngángsins til N. Ts., skal það, sem yfirfarið hefur verið á frummáli N. Ts., að minnsta kosti ná yfir þetta: eitthvert af hinum leingri þremur fyrstu guðspjöllum, guðspjall Jóhannesar, kennimannlegu brèfin, brèfið til Rómverja, brèfið til Efesusmanna, brèfið til Galatíumanna, eða fyrra brèfið til Korintuborgarmanna; en aðrar bækur N. Ts. skal yfirfara á íslenzkri túngu. Í G. T. skal prófið vera úr inngánginum til G. Ts., og þeim kafla úr því á íslenzku máli, sem lesinn hefur verið á prestaskólanum, og þeir, sem gánga undir próf í ebresku, skulu hafa yfirfarið 1 bók í sálmunum, eða jafnlángan kafla í spámönnunum á frumtúngu G. Ts.

2, Í trúarfræði, og

3, í siðafræði er prófið bæði skriflegt og munnlegt.

ugentlige Underviisning idetmindste indbefatte 36 Timer.

§ 8.

En offentlig Afgangsexamen afholdes hvert Aar i Midten af August-Maaned, og indsender Forstanderen for Pastoralseminariet i Forvejen til Ephoratet en Examenstabel, der indeholder en Fortegnelse over samtlige Examensgjenstande, samt Angivelse af den Orden, hvori Examen foregaaer. Ved denne Examen blive Alumnerne at pröve i samtlige under § 2 anförte Underviisningsgjenstande, nemlig:

1, I Exegetik anstilles saavel skriftlig som mundtlig Pröve i hvad der i to Aar er læst i det Nye og i det Gamle Testament, hvilket idetmindste maa indbefatte: i det Nye Testament, foruden Indledningen til samme, i Grundsproget: et af de större synoptiske Evangelier, Johannis Evangelium, Pastoralbrevene, Romer-, Epheser-, Galater-, eller det förste af Korinther-brevene, og i Modersmaalet: det övrige Nye Testament. I det Gamle Testament: Indledningen til samme, og det Qvantum af Testamentet i Modersmaalet, som har været foredraget i Pastoralseminariet, samt for dem, der opgive Hebraisk til Examen: 1 Bog af Psalmerne, eller et tilsvarende Qvantum af Propheterne, i Grundsproget.

2, I Dogmatik og

3, i Moral aflægges en skriftlig og en mundtlig Pröve.

4, Í kirkjusögu, ásamt biblíusögu og sögu trúarlærdómanna, er prófið einúngis munnlegt.

5, Í prèdikunarlist er hið skriflega próf innifalið í því, að semja prèdikun út af einhverjum tilteknum texta, en munnlega prófið í því, að prestaefnin flytja ræðuna í viðurvist prófdómenda við lok prófsins.

6, Í barnaspurníngarfræði er prófið einúngis fólgið í barnaspurníngu, og skulu umsjónarmenn prestaskólans sjá svo til, að nokkur börn sèu í því skyni kölluð til kirkju.

7, Í kennimannlegri guðfræði og

8, í kirkjurètti skal, eptir því sem á stendur, annaðhvort halda sèrstakt próf, eða taka það saman við prófið í öðrum kennslugreinum, t. a. m. trúarfræði og kirkjusögu; en hvort heldur er, skulu einkunnir fyrir hinar fyrnefndu greinir jafnan lagðar saman við einkunnirnar fyrir trúarfræði og kirkjusögu.

9. gr.

Burtfararpróf skal haldið í viðurvist biskupsins af kennendum prestaskólans, og skiptast þeir á um að hafa tilsjón hjá þeim, sem útskrifast, meðan þeir eru að leysa úr hinum skriflegu spurníngum. Bæði skrifleg og munnleg svör skal biskup og hinir föstu kennendur prestaskólans dæma, og ákveða þeir hver um sig, jafnskjótt og þeir hafa gefið atkvæði sitt í hverri prófgrein, einhverja af þessum einkunnum: afbragðsvel, dável, vel, sæmilega,

4, I Kirkehistorie, med Bibel- og Dogmehistorie, anstilles alene mundtlig Examination.

5, I Homiletik bestaaer den skriftlige Pröve i Udarbeidelse af en Prædiken over et opgivet Æmne; den mundtlige i at afholde den udarbeidede Prædiken, hvilket foretages henimod Examens Slutning i Censorernes Nærværelse.

6, I Catechetik bestaaer Pröven alene i Catechisation, hvortil endeel Börn, efter Ephoratets Foranstaltning, sammenkaldes i Kirken.

7, I Pastoraltheologie og

8, i Kirkeret anstilles, efter Omstændighederne, enten en særskilt mundtlig Pröve, eller, hvad deraf er læst i Pastoralseminariet, medtages under Examinationen af andre Discipliner, saasom Dogmatik og Kirkehistorie, hvortil Characteren for de förstnævnte i begge Tilfælde bör henlægges.

§ 9.

Examen afholdes i Biskoppens Nærværelse af Pastoralseminariets Lærere, der skiftes til at have Tilsynet med de skriftlige Udarbeidelser; men saavel disse, som de mundtlige Præstationer, bedömmes af Biskoppen og de faste Lærere, der hver for sig, umiddelbart efter Bedömmelsen af enhver Pröve, meddeler en af fölgende Specialcharacterer: *Udmærket godt, Meget godt, Godt, Temmelig godt,*

laklega, illa. Síðan skal leggja saman atkvæði prófdómendanna, og gjöra af þeim einstaka einkunn í hverri prófgrein; en í þeim greinum, sem prófið er bæði munnlegt og skriflegt í, skal leggja saman atkvæðin fyrir hvorttveggja, og gjöra af eina einstaka einkunn fyrir alla greinina; þó skal prèdikunarlist vera undanskilin; þar skulu vera tvær einkunnir, önnur fyrir að semja ræðuna, og hin fyrir framburð. Fyrir prófgreinir þær, sem taldar eru, verða þannig gefnar 7 einstakar einkunnir, eða: 1 fyrir biblíuþýðíngu, 1 fyrir trúarfræði, 1 fyrir siðafræði, 1 fyrir kirkjusögu, 2 fyrir prèdikunarlist, og 1 fyrir barnaspurníng. Fyrir kennimannlega guðfræði og kirkjurètt skal þar á mót ekki gefa sèrstaka einkunn (eins og getið var um í 8. gr.), og hefur þá prófið í þessum greinum engin beinlínis áhrif á aðaleinkunnina.

### 10. gr.

Hinar einstöku einkunnir gilda þetta í tölum: *afbragðsvel* = 8; *dável* = 7; *vel* = 5; *sæmilega* = 1; *laklega* = ÷ 7; *illa* = ÷ 23. Úr hinum einstöku einkunnum skal búa til eina aðaleinkunn, sem heitir: *fyrsta einkunn, önnur einkunn*, eða *þriðja einkunn;* er hún ákveðin eptir tölugildi hinna einstöku einkunna samtals á þessa leið: til fyrstu einkunnar þarf að minnsta kosti 4 dável og 3 vel, eða 43 tölur; til annarar einkunnar 4 vel og 3 sæmilega, eða 23 tölur; til þriðju ein-

*Maadeligt, Slet.* De af Censorerne afgivne Characterer sammenlægges, og deraf uddrages een Specialcharacteer for hver Pröve; men i de Fag, i hvilke baade en skriftlig og en mundtlig Pröve aflægges, sammenlægges Characteren til een Specialcharacteer for hele Faget, dog med Undtagelse af Homiletiken, hvor Charactererne, den ene for Talens Udarbeidelse, den anden for det mundtlige Foredrag, holdes adskilte som to Specialcharacterer; og vil der saaledes for de nævnte Examinationsfag falde syv Specialcharacterer, nemlig: for Exegetik een, Dogmatik een, Moral een, Kirkehistorie een, Homiletik to og Catechetik een. For Pröven i Pastoraltheologie og Kirkeret gives derimod ikke særskilt Characteer (som i § 8 bemærket), og har den saaledes ingen umiddelbar Indflydelse paa Bestemmelsen af Hovedcharacteren.

§ 10.

Specialcharactererne tillægges fölgende Talværdier: *Udmærket godt* = 8, *Meget godt* = 7, *Godt* = 5, *Temmelig godt* = 1, *Maadeligt* = ÷ 7, *Slet* = ÷ 23. Af de faldne Specialcharacterer uddrages en Hovedcharacteer, der benævnes: *Förste, Anden,* eller *Tredie* Characteer, og bestemmes ved Specialcharacterernes sammenlagte Talværdi efter fölgende Forhold: Til *förste Characteer* fordres idetmindste 4 meget godt og 3 godt, eller 43 Points. Til *anden Characteer* fordres idetmindste 4 godt og 3 temmel. godt, eller 23 Points. Til *tredie Cha-*

kunnar 2 vel og 5 sæmilega, eða 15 tölur. Við fyrstu einkunn má bæta þeim viðauka *afbragðsvel*, og þarf til þess að minnsta kosti 4 afbragðsvel og 3 dável, eða 53 tölur; á sama hátt skal og skipta annari einkunn í tvo staði, og heitir hið efra stig *önnur betri einkunn*, og þarf til þess að minnsta kosti 7 vel, eða 35 tölur. Nái hinar einstöku einkunnir saman lagðar ekki 15 tölum, má ekki heita, að sá, sem svo stendur á fyrir, hafi af lokið prófi, og getur hann þá ekki geingið undir nýtt próf, fyr en að ári liðnu.

11. gr.

Umsjónarmenn prestaskólans taka mann, til að rita í bók hin helztu atriði úr yfirheyrslunni; skal sú bók vera fullgild. Að loknu prófi gefur forstöðumaðurinn hverjum þeim, sem hefur af lokið því, vitnisburðarbrèf, og setur undir það innsigli prestaskólans; þar skal til greina bæði aðaleinkunn og allar einstakar einkunnir, og gefa vitnisburð fyrir iðni, menntun og siðferði. Vitnisburðarbrèfið skal síðan rita í prófbókina, og staðfest eptirrit þess skal senda umsjónarmönnum prestaskólans. Prenta skal á ári hverju stutta skýrslu bæði um afdrif prófsins og alla tilhögun á kennslunni.

12. gr.

Einkunnir guðfræðínga frá háskólanum í Kaup-

*racteer* fordres idetmindste 2 godt og 5 temmel. godt, ellel 15 Points. *Förste Characteer* kan forhöjes med Tillægget: *Med Udmærkelse,* hvortil idetmindste fordres en Talværdi af 4 *udmærket godt* og 3 *meget godt,* eller 53 Points; og ligeledes kan *anden Characteer* deles i to Dele, hvoraf förste Deel kaldes: *Anden Characteer med Föje* og indbefatter idetmindste 7 *godt,* eller 35 Points. Med Specialcharacterer af en mindre Talværdi en 15 Points antages den Vedkommende ikke at have bestaaet Examen, i hvilket Tilfælde han ikke kan indstille sig til Examen igjen förend efter et Aars Forlöb.

§ 11.

Af Ephoratet antages en Protocolförer, der i en dertil authoriseret Protocol indförer de vigtigste Momenter af Examinationen. Efter afholdt Examen meddeler Forstanderen for Pastoralseminariet Enhver, der har bestaaet Examen, et med Pastoralseminariets Segl forsynet *testimonium,* der indeholder saavel den erholdte Hovedcharacteer, som samtlige Specialcharacterer, tilligemed et Vidnesbyrd om den Paagjeldendes Flid, Dannelse og Sædelighed, hvorpaa det indföres i Examensprotocollen, og en vidimeret Afskrift deraf tilstilles Ephoratet. En kort Beretning bliver aarligen at trykke, saavel om Udfaldet af Examen, som Underviisningens Gang i det Hele.

§ 12.

Fölgende Characterer for theologiske Candi-

mannahöfn og prestaefna úr prestaskólanum skulu gánga jafnhliða þannig:

| *í háskólanum:* | | *í prestaskólanum:* |
| --- | --- | --- |
| *Laudabilis* ....... | jafnt | *afbragðseinkunn;* |
| *Haud illaud. primi gradus* | — | *fyrstu einkunn;* |
| *Haud illaud. secundi gr.* | — | *annari einkunn;* |
| *Non contemnendus* ... | — | *þriðju einkunn.* |

13. gr.

Prestaskólinn, sem eptir ákvörðun sinni er æðri menntunarskóli handa prestaefnum á Íslandi, er vísindastofnan sèr í lagi, og að öllu leyti út af fyrir sig. Prestaskólinn skal vera undir yfirumsjón stiptsyfirvaldanna, en öll nákvæmari umsjá skal falin forstöðumanni prestaskólans á hendur; hann skal og stýra kennslunni, og eru honum til aðstoðar í kennslunni settir tveir fastir kennarar. Þar að auk er stiptsyfirvöldunum gefið vald til, að taka tímakennara til að halda fyrirlestra í kirkjurètti, og saungkennara til að kenna prestaefnunum að tóna.

## *II. Kennararnir og kennslan.*

Auk Drs. P. Pèturssonar, sem 21. dag maímán. 1847 var af konúngi kjörinn til forstöðumanns prestaskólans og Lector theol., var honum til aðstoðar við kennsluna af stiptsyfirvöldunum settur aðjúnkt við latínuskólann S. Melsteð, en síðan var honum af konúngi 17. dag septembermán. s. á. veitt kennaraembætti við prestaskólann. Ári síðar var sèra H. Árnason settur af stiptsyfirvöldunum

dater fra Kjöbenhavns Universitet og Candidaterne fra Pastoralseminariet stilles ligemed hinanden:

| Ved Universitetet: | | Ved Pastoralseminariet: |
|---|---|---|
| *Laudabilis* . . . . . . . . . | = | *1. Characteer med Udmærkelse;* |
| *Haud illaudab. primi gradus* | = | *1. Characteer;* |
| *Haud illaudab. secundi gradus* | = | *2. Characteer;* |
| *Non contemnendus* . . . . . | = | *3. Characteer.* |

§ 13.

Pastoralseminariet, der ifölge sin Bestemmelse er en höjere Dannelsesanstalt for vordende Geistlige paa Island, er en for sig bestaaende selvstændig Læreanstalt. Stiftsövrigheden har Overtilsyn med denne Dannelsesanstalt, men det nærmere Tilsyn besörges og Underviisningen ledes af Forstanderen, til hvis Medhjelp ved Underviisningen 2 Docenter ansættes. Desuden bemyndiges Stiftsövrigheden til at antage en Timelærer til at afholde Forelæsninger over Kirkeretten, samt en Syngelærer til at undervise de Studerende i Messning.

## *II. Lærerne og Underviisningen.*

Foruden Dr. P. Pètursson, som den 21. Mai 1847 allernaadigst var udnævnt til Forstander for Pastoralseminariet og Lector theologiæ, blev S. Melsteð, Adjunct ved den lærde Skole, af Stiftsövrigheden antaget til Medhjelp ved Underviisningen, men under 17. September s. A. ansat som Docent ved Læreanstalten. Næste Aar blev Pastor H. Arne-

til að kenna forspjallsvísindi, sálar- og hugsunarfræði, í prestaskólanum, en 14. maí 1850 var hann af konúngi kjörinn til að vera kennari við prestaskólann. Hinir föstu kennarar við prestaskólann eru þannig 3 með forstöðumanninum.

Fyrsta árið, frá byrjun októbermán. 1847 til júnímánaðar-loka 1848, var lesið fyrir þeim, sem komu á prestaskólann, öllum í einu lagi, en þegar nýir bættust við árið eptir, varð að hafa þá sína í hvoru lagi, þar eð hinir nýkomnu ekki voru svo undirbúnir, að þeir gætu fylgzt með hinum, sem leingra voru komnir; vegna þessa voru prestaskólanum feingnar 2 stofur til fyrirlestra, fyrst í skólahúsinu, og frá því árið 1850 hafa þær verið leigðar úti í bænum fyrir 200 rdl., sem stjórnin veitir prestaskólanum árlega til húsaleigu, eldiviðar og ljósa.

Kennslugreinunum er skipt milli kennaranna á þessa leið:

*a, Biblíuþýðíng.* Forstöðumaðurinn fer með prestaefnunum í tvö ár yfir þessar bækur N. Ts.: kennimannlegu brèfin, brèfið til Efesusmanna, Rómverjabrèfið, 1. brèfið til Korintuborgarmanna, og bæði brèfin til Tessaloníkumanna. Kennari S. Melsteð les með báðum deildum annað árið 3 fyrstu guðspjöllin, og hitt árið Jóhannesar guðspjall og brèf hans; þar að auk með fyrri deildinni annaðhvort brèfin til Galatíu- og Filippi-manna og Jakobs brèf,

sen af Stiftsövrigheden constitueret til at holde propædevtiske Forelæsninger, navnlig over Psychologie og Logik ved Pastoralseminariet, men under 14. Mai 1850 allernaadigst beskikket til Docent ved samme. Lærerpersonalet bestaaer saaledes af 3 faste Lærere, Forstanderen iberegnet.

I det förste Aar, nemlig fra Begyndelsen af October-Maaned 1847 til Udgangen af Juni-Maaned 1848, var der kun eet Hold Studerende, men i det fölgende Aar blev det ved nye Alumners Optagelse nödvendigt at dele dem i to Classer, da de nys optagne manglede den fornödne Forberedelse forat kunne fölge med de videre komne. Paa Grund heraf fik Pastoralseminariet to Læsestuer, först i Skolebygningen, og siden A. 1850 i Byen, for en aarlig Leje af 200 rdl., der allernaadigst ere bevilgede til Anskaffelse af Læsestuer, Brændsel og Belysning.

Underviisningsgjenstandene ere fordeelte mellem Lærerne paa fölgende Maade:

*a, Exegetik.* Forstanderen gjennemgaaer i to Aar med Alumnerne fölgende Böger af det Nye Testament: Pastoralbrevene, Epheser-, Romer- og det förste af Corintherbrevene, samt begge Brevene til de Tessaloniker. Docent S. Melsteð gjennemgaaer med begge Afdelinger det ene Aar de 3 synoptiske Evangelier, og det andet Aar Johannis Evangelium og hans Breve; med den förste Afdeling enten Galater- og Philippenser-Brevene, samt

eða brèfið til Ebreskra. Allar þessar bækur eru lesnar á frummálinu með nákvæmum samanburði og ýtarlegum skýríngum, og jafnframt iðulega bæði yfirheyrt munnlega úr því, sem lesið er, og haldnar skriflegar æfíngar. Kennararnir hafa látið sèr annt um, að lesa sem mest af biblíuþýðíngu fyrra lestrarárið, nl. 10 til 12 tíma í hverri viku, svo stúdentarnir gætu sem fyrst náð þeim grundvelli, sem trúar- og siða-fræði eru byggðar á. Þar á mót hafa þeir, vegna hins nauma tíma, sem ætlaður er til kennslunnar, ekki getað komizt yfir að yfirfara hinar aðrar bækur N. Ts. á íslenzku, eins og gjört er ráð fyrir í reglugjörðinni, nema að svo miklu leyti sem sagt er frá inntakinu í postulanna-gjörníngum, bæði í inngángi sumra Páls brèfa, og sèr í lagi í kirkjusögunni. En þar eð það, sem lesið er í frummálinu, er talsvert meira en það, sem minnst er til tekið í reglugjörðinni, virðist þetta vera fullkomið jafnvægi þess, sem fyrir skipað er að lesa, og það því fremur, sem það mun verða affarabetra fyrir prestaefnin, að vel sè farið í það, sem lesið er, en að lauslega sè hlaupið með þeim yfir meira. Ekki hefur því heldur orðið komið við, að lesa kafla úr gamla testamentinu sèr á parti á íslenzku, heldur hafa að eins þeir staðir verið útskýrðir, sem vitnað er til í N. T., og, nær tækifæri hefur gefizt, útlistað

Jacobs Brev, eller Brevet til de Hebræer. Alle disse Böger blive med nöjagtige Jævnförelser og udförlige Forklaringer gjennemgaaede i Grundsproget, hvorhos der jævnlig anstilles mundtlige Examinatorier og holdes skriftlige Övelser. Lærerne have bestræbt sig for at gjennemgaae saa meget som muligt af det Nye Testamentes Exegese i det förste Aar, nemlig 10—12 Timer om Ugen, for at de Studerende snarest muligt kunde blive funderde i denne Disciplin, som den Grundvold, hvorpaa Dogmatiken og Moralen ere byggede. Derimod have de paa Grund af den korte Tid, hvortil Underviisningen er indskrænket, ikke kunnet overkomme at gjennemgaae de övrige Böger af det Nye Testament i Modersmaalet, saaledes som det er foreskrevet i Regulativet, undtagen forsaavidt Indholdet af Apostlernes Gjerninger er meddeelt saavel i Indledningen til nogle af Pauli Breve, som navnlig i Kirkehistorien. Men da det Pensum, som læses i Grundsproget, er betydelig större end det, som Regulativet fordrer som Minimum, er dette formentligen et Æqvivalent for det Normerede, saa meget mere, som en udförlig Udvikling af det Læste vistnok vil være til större Gavn for Alumnerne, end om et större Qvantum kun löselig blev gjennemgaaet. I det Gamle Testament har man heller ikke faaet Tid til at gjennemgaae et særskilt Qvantum i Modersmaalet, men har maattet indskrænke sig til at fortolke de Steder, der ere citerede i det Nye Testa-

samband kristindómsins og Gyðíngatrúarinnar, skyldugleiki þeirra og mismunur; einnig hefur Gyðíngasagan verið tekin inn í kirkjusöguna. Ekki hefur heldur neitt orðið lesið í G. T. á frummálinu, af því þeir, sem geingið hafa á prestaskólann, ekki hafa skilið ebresku; en hvorki leyfir tíminn nè tilgángur prestaskólans, að þeim sè þar kennd málfræði, þar eð þetta virðist heyra til frummenntunarinnar.

b, *Trúarfræði.* Forstöðumaðurinn heldur fyrirlestra yfir trúarfræðina 4—5 tíma í viku fyrra árið, og hèr um bil 2 tíma í viku seinna árið, skiptir henni í kafla, og þeim aptur í greinir, sem hann nákvæmar útlistar. Hann hefur stundum yfirheyrt stúdentana úr henni munnlega, og þar að auki ætíð lagt fyrir þá skriflegar spurníngar úr henni til úrlausnar, og til þess varið tveimur eptirmiðdagstímum einu sinni í hverri viku fyrra árið, en færri tímum seinna árið, og varið þá þeim mun fleiri til kennimannlegu guðfræðinnar.

c, *Siðafræði.* Kennari S. Melsteð kennir siðafræði hið síðara lestrarár 4 tíma í viku. Til grundvallar fyrir þessum fyrirlestrum hefur verið lagt „Grundrids til Moralphilosophiens System" eptir biskup Martensen, en bætt við og aukið inn í atriðum, þar sem þess hefur helzt þótt þörf, einkum í ingánginum og dyggðafræðinni. Til munnlegrar

ment, samt leilighedsviis udvikle Christendommens Forhold til Jödedommen, deres Slægtskab og Modsætning, ligesom ogsaa Jödernes Historie er optaget i det kirkehistoriske Foredrag. Ligesaalidt har man været istand til at læse noget i det Gamle Testament i Grundsproget, da de, som have freqventeret Pastoralseminariet, ikke have forstaaet Hebraisk; men hverken tillader den korte Tid, eller Pastoralseminariets Formaal, at man der giver sig af med den grammatikalske Sprog-Underviisning, hvilket formentligen hörer til den elementare Underviisning.

*b, Dogmatik.* Forstanderen foredrager Dogmatiken 4—5 Timer om Ugen i det förste Aar, men omtrent 2 Timer ugentlig i det sidste Aar. Han deler den i Afsnit, og disse igjen i Paragrapher, som han siden nærmere udvikler. Undertiden har han anstillet mundtlige Examinatorier, og derhos stedse skriftlige Övelser, hvortil han har anvendt 2 Eftermiddagstimer eengang om Ugen i det förste, men noget færre Timer i det sidste Aar, for da at kunne anvende desto flere Timer til den practiske Theologie.

*c, Moral.* Docent S. Melsteð foredrager Moral i det sidste Studieaar 4 Timer ugentlig. Til Grund for disse Forelæsninger har været lagt „Grundrids til Moralphilosophiens System“ af Biskop Martensen, foröget med indskudte Afsnit, hvor dette syntes nödvendigt, navnlig i Indledningen og Dydslæren. Til mundtlig Examination anvendes sædvanlig 1

yfirheyrslu er venjulega varið 1 tíma í viku, og til skriflegra æfínga 2 eptirmiðdagstímum í viku.

*d, Kirkjusaga.* Kennari S. Melsteð les kirkjusögu fyrir með báðum deildunum í sameiníngu, annað árið fram að Lúthers siðabót, og annað fram að vorum tímum, 4 – 5 tíma í viku.

*e, Kirkjurèttur.* Eptir uppástúngu forstöðumannsins og tilhlutun umsjónarmannanna hefur landsyfirrèttardómari J. Pètursson seinustu tvö árin lesið yfir kirkjurèttinn með báðum deildum í sameiníngu 3 tíma í viku. Hefur hann í fyrirlestrum sínum bæði útlistað hinn almenna kirkjurètt, og sèr í lagi íslenzkan kirkjurètt, og frætt prestaefnin um hinar helztu kirkjulegu tilskipanir, um skýrslur, sem prestar eiga að gefa, um stjórn á fátækra-málefnum og um forstöðu prestakalla, ásamt kirkju og kirkjujörðum.

*f, Kennimannleg guðfræði.* Forstöðumaðurinn heldur einu sinni í viku tvo tíma í senn seinna árið fyrirlestra yfir prèdikunarlist, og gefur jafnframt stuttar reglur fyrir því, hvernig semja skuli tækifærisræður. Þar að auki fær hann stúdentunum seinni hluta seinna ársins ræðutexta, og lætur þá leggja út af þeim, og síðan flytja ræðurnar í dómkirkjunni, hèr um bil einu sinni á hverjum hálfsmánaðarfresti.

*g, Barnaspurníng.* Forstöðumaðurinn venur prestaefnin við að spyrja börn, og ver til þess síðari hluta seinna ársins tveim tímum einu sinni í viku.

